ku hia heñe/ vardar oss ecke um̃/ þad er oss noog/ ad Gud þecker Sÿna. Jacobs Saudþie var þad þleckotta/ og þar af þeckte hañ þa Hiörd er hañ atte. Veroldeñ giörer oss opt mislita / bæde blaa og bleika / og optlega margfleckotta : þo hun giöre þad ecke med Jacobs Stöfum/ er hñ kastade i Vatnsreñurnar / þa samt med ödrum heñar Vppaþindingum / med Læstmælum / Rooge/ Opsooknum og ödru þess hættar. Eckert af þessu kañ ad draga oss wt wr Tölu Guds Barna. Farþe Guds er hvÿtur og raudur : aþ hönum þecker hñ þa sem hañs Eign eru / og vier meigum med þeim rauda Krossburd arens Lit iñganga i Himnarÿke. Ept er Tölu vorra Misgiörninga er skylldugt vier lÿdum Tölu Slagaña (f) Eñ allra vorra Vikna og Mæanada Tal er hia Drottne (g) / þegar þetta er um̃lided/ snerter oss eingeñ Kvöl framar meir. Hier um̃krÿngia oss opt Otelianleg

(f) Deut. 25. v. 2. (g) Job. 14. v. 5.

takileg Kvalræde (h)/ þar verda Taar-
eñ/ hverium vier hefū i Heimsins Kvøl
um wthellt/ øll af þurkud. Hia Gude
eru ecke einasta allar vorar Vikur/ Dag
ar og Stunder / helldur og øll vor Høf
ud-Haar taleñ ( i ). Israels Tijme
hefur engva Tølu / seiger Syrach /
37. Cap. v. 28. Gud giører þær
Dasemder sem ecke kuña ad teliast (k).
Þo ad vorer Bresster sieu so marger/ ad
þeir kuñe ecke ad teliast (l) / mun Gud
af siñe Naad þa hia oss Otalda vera lata
ta / nær vier ydrunst þeirra af Hiarta.
Vikañ hefur sitt Nafn af Vøkuñe.
Margar Sorgar Vikur kuña oss ad
Høndum ad koma / a medañ vier erum
ad wtenda Vikur vorra Lijfdaga i Heim
enum / þo vier fáum a þeim nockrar
Andvøkur / i Hrigd og Sturlan vors
Hiarta/ hvad kañ oss þvilikt ad skada/
þegar sa sañe Israelis Vaktare vaker
med opnum Augum yfer oss / og fører



(h) Psal. 40. v. 13. (i) Matth. 10. v. 30.
(k) Job. 5. v. 9. (l) Eccles. 1. v. 15.

ofs Loksins/ sem sina svefnugu Postula/ og þær forsiælu Jomfrwrnar/ er eirnest sofnudu/ i sin Brwdguma Sal? hvar vier þæum ecke sem Lea med Jacob ad hallda eina Viku med honum / helldur um alla Eilifd.

# X. Vmþeinking
## Af
## DEJGENUM.

Joh. 11. v. 9.

**Hver han geingur um Dag en/ sa steiter sig eige.**

ALler Dagar eru ecke eins / aller Men og ecke helldur. Stundum er kallt / stundum heitt/ þess a mille Gott/ þess a mille Jllvidre / þo eigum vier af hverium Deige a þeim epsta Deige Reiknings-skap ad giøra. Dagar vors Lifs eru stutter. Til þess sem vier giørum a þm / þurfum vier þo leinge ad svara. Vel-

vadur

vadur mæ ſa Dagur vera / a hverium vier hofum ecke neitt pad giort / ſem Gude er til Dyrdar / eñ oſſ til Sælu-hialpar: eñ hvad marga Daga hofum vier po med peſſum Nætte læted lijda? Ef aller vorer Dagar kyñu ad tala / mundum vier hafa ſo marga Aklagend ur/ ſem vor Augnablik a peim vered ha fa. David bad Gud / ad hañ villde kieña ſier / ad telia edur reikna ſijna Da ga/ ſo ad hñ forſiall yrde. Sa hæd-ſte Forſiælegleike er p/ ad vier reiknū a hverium Deige Tolu vorra Misgior-ninga / ſo ad þrra Tala verde ecke of-mikel/og uñ ſijder ein Oteliañleg Sum-ma. Dagureñ er ap Gude ſkapadur / til peſſ ad Madureñ ſkylldè a honum giora ſijn Verk og Erfide. Sa gior-er pad beſta Verk/ ſem erfidar ſo fyrer ſialfañ ſig/ ad hñ burtvellter peim Þwn-ga/ ſem a hñs Niarta og Sælu liggur/ pad eru Syndernar. Eñ ad verda lauſer vid pær/ purfum vier par til ſiero-deilislega fioora Daga. Sa fyrſte

 hlijtur

hliotur ad verka hia oss Vidbiood z Leida a Syndunum. Af þeim uppstiigur fyrer Gud eirn andstiggelegur Odaun. Sa sem finnur øngvann Odaun af sijnu Syndum / honum er eingenn Ohocke nie Vidbioodur a þeim. So sem Odaun enn er illa luktande fyrer Vitunum / so eru Syndernar fyrer Himnenum : þar fyrer verdur þeim Ogudlegu samlijkt vid þau fwlu Kid / hverium Doomare alls Hollds mun a epsta Deige fra sier vijsa. So leinge sem vier lætum Syndernar liggia i voru Skaute / og vier hofum þær til þess ad læta Dioffulenn kiefta af þeim þann Daun / sem honum giedast betur enn nockur ilmande Brennefoorn / elskande Syndena i Hiarta/ Sinne/ Huga og Handaverkum / erum vier a Himnum fyrer Gude ein Andstigd. Sa annar Dagur hliotur ad vera eirn Hrædslu og Skielfingar Dagur. Stoorbrota Madurenn hrædest fyrer hans Doomara/og hans Hrædsla hneiger opt Hiarta Doomarans til Medaumkunar. Ef

vier

vier hrædunst ecke fyrer Gude/ erum vier sem adrer Gudleysingiar. Þesser ganga a þeim Vege/ sem liggur til Nel vijskrar Glötunar / og eru Born ann Otta. Þeir hafa yfergiefed Guds Vegu/ og allre þeirre Æru / er þr attu honum ad veita/ fra sier kastad/ z hver ke Ottast þr nie skamast sijn þar fyrer. Illvirkest Ottast þo Vond Bödulsins. Marger Menn Ottast ecke Vegna sinna sofivirdelegra Synda/ hverke fyrer Nel vijte nie þeim stranga Einvallds Doo mara allrar Veralldarenar. Þad er Teikn eins Siwkdooms/ sa ed eige ver dur læknadur/ þegar hinn Siwke / epter þad optlega hefur vered bunded umm hans Sar / og þau hafa uppskorenn vered / spottar Læknis / Nond sijns Græðara. Sa þridie Dagurenn a ad vera eitn Yd runar og Angurs Dagur vegna Synd anna. An þess vier giorum Yðran/ ver da oss ecke Synderna fyrergiefnar. Nafn Siod þeirra skadsamlegu Lasta og Lystinga verdur ecke fra oss burtveitt / nema

nema þar til kome sañarleg Yðran. Guds Naad var þad ad þacka / ad Petur þieck Naad / eñ þo epter þad hñ haþde græted beisklega. Nũ sem Dyr siña Augna vill ei upplæta/so ad fyrer Syndunum sie upploked/ og þeim i burtu vijsad / kañ ecke ad þæ JEsum til ad iñganga i sitt Hiarta. Vatns Tar af Augum þess sem aþ Hiarta ydrast / giora Frelsarañs Hiarta breñande til ad giora þad sem sa harmande Syndare gyrnest. Sa þioorde Dagureñ a ad vera vor Erþidis Dagur. Vor Christ eñdoomur heimter Erþide af oss. Sa sem seþur/misser opt þad/hveriu hñ heþde kuñad vakande ad behallda/ Sa sem Ydiusamur er i sañre Gudrækne / uppbygger sialfañ sig Gude til eins heilags Musteris. Flester vorer Dagar eru vissulega um̃lidner : eñ lætum þa so mar ga sem epter kuña ad vera/i Jdkun Gud rækneñar fram̃leidast. Opt verdur a einu Augnablike aþrekad / þad sem a mørgum Deige heþur illa forsoomad vered.

vered. Vier vilium a þessum Deige leita Nadar og Myskunar hia Gude / til ad fullkomna þad gooda Verked/ allt til þess Dags JEsu Christi (a) / og vilium þar um bidia Noott og Dag stet deilislega(b). Vier erū Dagsins Børn/ (c). Latū oss þar þyrer ganga so sem a Deige. Dagur Christi er þegar fyrer Hondum/ seiger Paulus/ 2.Thess. 2.v. 2. Coronañ er eitneñ þyrer Hondum/ sem DRotteñ mun gieþa hinū Froomu/ þegar vor Goodverk koma fyrer Dageñ (d)/ og þad sem vier høþum adhaþst a vorum Lijþdøgum. Vier vilium giøra þad hid Gooda/ hvad hellst vier gietum vora Lijþdaga: Eñ hiałpa þu oss DRotteñ Gud aþ Nad þiñe / a øllum vondum Døgum/ til þess eilijfa Himins eska Fagnadar/ Amen.

(a) Phil. 1. v. 6. (b) 1. Thess. 3. v. 10. (c) 1. Thess. 5. v. 5. (d) 1. Pet. 2. v. 12.

## XI. Umþeinking

Af

# NOOTTVNNE.

Psalm. 42. v. 4.

## Mijn Taar þau eru mijn Fædsla Dag og Nott.

NOtten er valla nockurs Mans Vinur: En hiellde eingen med henne/ yrde ecke so morg Mirkra-Verk framen/ sem giord eru. Dag og Nott hefur Gud giort: En þegar NOtten er giord ad Deigenum og Dagurenn ad NOttenne/ þ hefur Dioþullenn giort. Marger vaka a NOttunne/og sofa a Deigenum: Þad hefur Gud ecke tilsett/ er NOttena hef ur skickad til Hvyllldar / en Dagenn til Erfidis. Sumer sitia langt fram a Nott til þess ad þilla sig af vormu Vijne/ ad leika Spil og Kotru/ edur sedia Bwken aþ Hollds z Bloods Vellystingum: En mun þetta vera riett? Flester giora af Deigenn NOttena/ Þeir syndga i Leinv-um/ en Gud straþþar þa Openberlega:

Oll þeirra Verk eru Natur Verk / og verda giørd i Koſtū/ þar ſem allra Handa Otugt er ƀrameñ : Þeir bera aungvañ Koſtda ƀyrer þeirre eilijƀu NOtt/ ſim ſtdarmeir mun yfer þa koma. NOtt Mirkraña hefur allmargra Hiortu og Siñe ſo ƀormirkvad / ad þeir ganga a Deigenum/ ſo ſem være þeir i Egyptalands Mirkrum/ þar ſa eine kuñe ecke ad ſiaa hiñ añañ. Gud ſier alla. Hvorn eñ mun þeſſum Natur-Doolgum vilia ganga/þegar ſa mikle Dagur uppreñur/ a hverium aƀ øllum verdur Reikningsſkapur heimtur / og Skijla Mirkraña/ ſem oſſ villt haƀa/ er i burtutekeñ/og øll vor Verk verda berlega i Lioos leidd? Fyrer Mønuml kuña marger ad ƀela ſig: Eñ eingeñ ƀ Gude. Þu Ogudlege/ Eƀ þijn Saal verdur af þier kraf eñ a þeſſare NOttu (a). Ertu Reidubweñ? Sañarlega ecke: So er Voir þier gange Illa i NOtt/og eñ verr þar epterkomande Natur/ og þo ſamt villtu gieƀa

(a) Luc. 14. v. 2.

giefa þig i þÿna Sæng : Eñ giorer þu þad med þessum Nætte an Ydrunar/ so verdur þÿn Sæng/ þitt Helvÿte. Og a þessu er eingeñ añar Mismunur eñ sa/ ad mille þeñar og þess / attu epter eirn lÿtiñ Tÿma Olifadañ. Ef þu lÿf er sialfum þier/ verdur þitt Synda-Registur þiñ Aklagare/ Hvo þad þa af med Tarum Ydrunarteñar/ so þad giete þier ecke sÿdarmeir Mootmæle veitt. Gior þig lausañ vid þÿnar Synder/ sem þu drygt hefur. Þu veitst ecke hvad a epterkomande NOttu kañ ad skie. Nott eñ kiemur/ nær eingeñ fær verkad (b). Nu er Tÿme ad giora sig reidubweñ/ adur eñ Sooleñ fullkomlega undergeingur. Taktu i burtu þa Skÿlu/ sem er fyrer þÿnum Formirkvodu Augum/ so ad Sool Riettlætesins JEsus meige þig uppÿsa. Þad sem i Mirkrunum er skied / lat þig angra opeñberlega/ so muntu þess opeñbera Guds Fyrerheitis/ ad eingeñ/ sem a Christum truer ; skule fyrer-

(b) Joh. 9. v. 4.

fyrerþaraſt/ nioofande verda. Þeinkiu um̃ þa heloÿtſku NOtt/ a hverre þeir Fordæmdu pijnaſt. Stoorum gagnar þier ad gyrnaſt epter þm̃ Himneſka Dei ge / ad ſkæra NOtt Syndareñar burt ljda/ og i Lioose eins Chriſtelegs Lijfs ernis ad ganga. Þeſſe Dagur er ſnart um̃lideñ/ med honum eru og lidnar allar þær Stunder/ ſem þeir Froomu̇ haþa i Dag lided. So hialpar Gud ad wienda eirn Dageñ epter añañ/ þangad til ſw ſkiæra Morgunſtiarna uppreñur / nær Meñ hafa ecke þramar ad kvÿda þyrer neirnre Eimd edur Anaudum. Vier hliootum ad bÿda epter þvi/er a þeſſare tilkomande Nootl mun ſkie: Hvert helldur hun verdur oſſ Hrædſlu edur Huggun ar Nootl (c) / mun Gud hiælpa oſſ/ hana og adrar vel ad enda / þar til ſw ſÿdarſta kiemur/ ſem verda mun hin beſta/ a hverre vier munum þrœ ollu Illu leidder verda. Margur kañ med David/ ad vera ſo mæddur aþ Andvarpan/ ad

(c) Job. 7. v. 14.

ad hañ bleiter um̃ alla NOttena ſyna Sœng/og vœter i Tœrum ſitt Legurwm (d) og kallar a NOttu og Deige til Guds ſyns Hiœlpræðis (e)/ og ꝥiñur þo valla adMorgne/ þad/ med hveriu hañ giete ſig huggad. So geingur þad til fyrer oſſ i Verolldeñe: Eñ ſydar mun þad betur ꝥalla. Hier verdũ vier fœdder a Harma-Braude Tymañlega/ Eñ a Himnũ med Hunang-ſœtre Hugg un og Fagnade Eilyꝥlega: Epter þvi hlióotum vier ad þreyia/ og þetta med þoleñmœde ad um̃lyda/ og vona uppa DRotteñ ꝥrœ eitne Morgunvokuñe til añcrar. Vier vilium Ottaſt Gud/ bæde Noott og Dag (f)/ og þeinkia um̃ hñs Logmœl Dag og Noott (g). Gud/ ſem vitiar vors Hiarta a Nœttarþelenu(h)/ mun vorum veikum Anda Stirk gieꝥa/ ad hañ falle ecke nie ørvœnte. Ef vier miñunſt hñs Nafns a NOtteñe(i)/ verdur

(d) Pſal. 6. v. 7. (e) Pſal. 88. v. 2. (f) Deut. 28. v. 66. (g) Joſ. 1. v. 8. (h) Pſal. 17. v. 3. (i) Pſal. 119. v. 55.

verdur þñ vor Nlijþ z Skiølldur/ i giegn Andlegu og Lijkamlegu Dags og Næt-ur Fære og Freistingum. Vor Sæng/ i hverre vier leitũ DRolleñs (k)/ verdz oss þa ad eirne Andlegre Paradijs/ þan-gad til vier þaũ komest til Himneskrar Hvildar i Abrahams Skaute. Vøku-Madur/ er NOtteñ snart wte (l)? So hroopum vier þegar vier lijdum og oss leingest epter Himlpeñe. Vor Augu munu ecke wtaþ sofna i Daudanum/ Lijka vel þo vier gørigum til Svefns i þvi dim̃a Nætur-Mirkre Grafareñar. Sw NOtt lijdur skiott/ og epter hana kiemur Vpprisañ/ þa eru og allar vorar Eimda Nætur wte/ og sa eilijfe Zions Dagur/ med Himneskum Dijrdarliooma fyrer Augunum/ a honũ hlijtur Noott-eñ ad vijkia fyrer Liooseñu. Latum oss vera Stadfasta i Bæneñe / Dag og NOtt (m)/ So mun Gud vort Land og Heimkiñe/ og alla oss/ sem þar iñebwũ/ fyrer

(k) Cant. 3. v. 1. (l) Es. 21. v. 11. (m) 1. Tim. 5. v. 5.

fyrer Áhlaupum og Ballde vorra Ovina/ vardveita/ og fyrer Magt fialfra Helvijtis Myrkra. Dioffulleñ ákłagar oss Dag og NOtt fyrer Gude (n): Christur bidur fyrer oss Daglanlega framme fyrer sijnum Himneska Fødur. Ef vier hølldum oss vid hañ/ kañ Satan oss alldrei ad skada. A þessare NOttu Oska eg mier og øllū Guds Elskurum/ Ad sialfur Gud sie oss sw Ohultasta Skiola / Einglarner vorer Vaktarar/ og sa Heilage Ande/ sem er Ande Lioossins/ Verndare alls þess/ sm vier vilium vardveitt sie til Morgundagsins: upprenne þa JEsus / sw skiæra Morgun-Stiarna i allra vorra Hiortum. Sofe Lijkameñ / eñ Sæleñ vake: So munum vier aller Gude til Lofs og Dijrdar uppvakna/ A M E N.

(n) Apoc. 12, v. 10.

# XII. Umþeinking.

Af

Morgenum

# MORGENNUM.

Amos. 4. v. 4.

## Bered þramm ydar Offur a Morgnana.

Morgun-Stund hefur Gull i Mund/ seigium vier i almeñu Mælltæke. Alldrei komum vier oþsnemma til Guds: Þess hefur marga ydrad/ er þad hafa seint giort. Þegar eirn Stadur edur Festing er apturlæst/ kañ eingeñ epter almeñelegre Skickan þar iñ ad komast. Þad sem Stadarvaktaranum er Leiþelegt þyrer utañ almeña Reglu ad giora/ sien dur i hañs Vallde. Sialþs Guds Borg/ sw nÿa Jerusalem/ hefur Tolþ Port (a): Eñ þeim øllum verdur læst a einum Tÿma/ og verdur alldrei aptur upploked um alla Eilÿfd. Vilie vockur grenslast epter þessu aþ þeim þim Ofotsialu Jomfrum (b)/ þar hañ ad

E   vita

(a) Apoc. 21. v. 12. (b) Matth. 25. v. 12.

vita hverneñ pad heþur geinged fyrer þeim. Marger skioota siñe ydrañ a Frest/ fra Morgne til Kvollds/ og allt til þeirrar seinustu Stundar sijns Lijfs/ Ja/ allt til þess sijdarsta Puncts Lijþs-Stundareñar. Sialldseingner munu þr vera/sem koma Ardeigis til Guds. Jeg hygg ad þlester drage pad undañ þar til Kvolld er komed. Þegar Meñ þiña þyrst til Siwkdoomsins/ leita þeir Lækn arañs/ Eñ ad leita Guds/ þyker þeim (mæ skie) alltijd noogu Snemma. Marger kuña ad hafa Vilia til þess ad vera Gooder og Gudhrædder / þo kañ þeim opt ad synast þad vera noogu snemt ad læta af þvi Jlla. Snemma Morguns plaga Meñ ad rijda a Jagt til ad veida Ville-Dyreñ: Hvad fæer eru þr sm i Tijma reka þra sier þau Villu-Dyr / Synndernar / er þiñast allt til oþmorg i Daglende og Takmorkum þra Hiarta? Medañ Skiped er heillt/ Sioofølreñ O hult / Stijre-Madureñ heilbrygdur / Segleñ sterk / Vindureñ goodur/ liggia allmarger

allmarger kyrrer a Nøþneñe: eñ þegar þessa breitest/og geingur Krabbagang / verda þra Vister / er þeir hoþdu ætlad sier til Siwo-Reisuñar / þordiarfadar. Þad sem oss opfast bindur vid þra hid Sÿmanlega / hinkrar oss þra þvi ad þiña JEsum. Þegar Forstanded er i burt / Siñed er orded dofed / Kraptar Nugskotsins og Lÿþsins / so sem añad riwkande Skar/ So kañ og Lioos Andagtareñar audvelldlega ad wtslokna: þa kañ Mañeskiuñe ad verda Ohægt um ad bidia / Ohægt sier ad uñe venda: hier til vilja stirkver Kraptar. Skule Gud ecke þra oss vikia / hliootum vier ad hallda honum med sterkre Twar, Nønd. Þeir sem hafa þioonad sÿna Lÿþstyd trwiega i Noofum edur Neragordum / eru optast i þeirra Alldur-doome setter til Rooleg heita. Gud vill læta oss þioona sier alla vora Lÿþdaga: eñ þegar Kvolld þra er komed / verda Guds Barna Laun Nimeneñ/ og þeirra Endurgiallð þad eilÿþa Lÿþed.

David vaknade ærla upp aþ ſijnum Syndum (c) / ædur eñ hñ haþde vermt þær hia ſier. Fære Syndernar fyrſt Nita Athot i Ædunñ/ ganga þær þliodt tñ i Niartad. Arla byriar þeim Mool, ſtodu ad veita/ añars mæ vera þad ver de helldur ſeint. Þad Ungur nem, ur/ gainall heþur. Ardeigis liet Abrahamm Ambættena Hagar þara i burt aþ ſijnu Hwſe (d)/ þvi kom Guds Bleſſ an yfer hañ i hañs Alldurdoome/og ad Kvøllde hñs Lijþs-Stunda. Ef vier ærla leitum DRottens (e) þiñum vier hañ (f). Þar þyrer vilium vier ſnem ma vakna til DRottens (g) / og ærla leita hañs a Morgun-Tijma vorrar Æſku: Arla a Tijma Nædaretiar og Deige Nialprædeſins: Arla a ſierhver, ium Dags Morgne/So mun hñ ſnemma verda vor Armleggur (h) DRottenn ærla vilier þu heira vora Rauſt (i). Vier

liggium

(c) Pſal. 57. v. 9. (d) Gen. 21. v. 14. (e) Prov. 1. v. 28. (f) Prov. 8. v. 17. (g) Eſa. 26. v. 9. (h) Eſa. 33. v. 2. (i) Pſalm. 5. v. 4.

liggium fyrer hier med vorum Bœnum. So sem vier høfum œrla hessa Dags Morgun byriad fyrer hyna Naad / So latktu oss hñ z i hiñe Naad fœ ad enda. DRottenñ vor Gud/hu sem hefur byriad oss ad hialpa / hialpa oss til eirnrar goodrar og œskelegrar Endaliktar / hu sem ert A og O / Upphaf og Ender / og lifer og ryker ad Eilijfu/ Amen.

# XIII. Umheinking.

## Af KVØLLDENU.

Psalm. 30. v. 6.

Um Kvølld-Tijmañ var er Gratureñ / eñ ad Morgne Dags Fognudureñ.



Egar Sandureñ er wtruñeñ wr Stunda-Glasenu / ha er Stundeñ wte / hegar Sooleñ undergeingur / er Kvølld kom-

e,o: hver Dagur hefur sitt Kvølld/ hver Madur endar sitt Lijf Loksins mz Daudanum. Med Kvølldenu er Dags Erfided endad: eñ i Daudanum er þo ecke allt ute um Mañeskiuna: til þess sem hun giorde i Lijfenu/ hvert helldur þad hefur vered Gott edur Jllt/ hlijtur hun ad svara epter Daudañ/ og epter þvi Launeñ edur Straffed/ ad medtaka þa hun kiemur fyrer Doomeñ. Þar verda Jllverk fra Oguðlegu endurgolldeñ/ og þeim Frómu þad/ þeir hafa lided a þeim mæðusama Deige fra Lijfs/ i þvi ad bera Hita og Þwnga Dagsins/ rijkuglega med eilijfre Dyrd og Glede betalad. Þegar Meñ vænta epter eitnu goodu Kvøllde/ kuña þeir giarnañ ad umbera þad/ þo Dagureñ sem leid/ hafe vered stirdur/ þvi nær Endalikteñ er good/ þa er allt gott. Sa sem vijs er/ giefe hañ Gude Dyrdena/ adur eñ Kvølldid kiemur/ og hañ kañ ad steita sijnar Fætur i Naat:mirkrenu.

Abraham i þvi Gamla/ og Nicodemus

demus i þvi Nÿa Testamentenu / vorit kallader i Fra Alldurdoome (k) / (l).
Nu þyker þad hartnær Undrunar vert/ ef eirn Græskieggiadur verdur til Guds umvendur. Hvar fyrer þad er ein tor velld og sialldsien Konst/ ad hafa þad ad Endalokunum/ sem Madur hefur leinge elskad. Þegar Siwkdoomurenn er fullkomlega komenn i Blooded / skendur Lækningenn a veikum Footum. Þo vil eg øngvann Mánn lÿtelhugadann giora/ mikklu sÿdur fra Gudlegre Nád burtvÿsa. Gud er bæde Myskunsamur og Riettlater/ hn̄ s kallade a hinne elleftu Stundu / hefur ad sønu Makt a Fre tolftu þa Ohlÿdugu fra sier ad reka. Þad er vÿst ad sa sem syndgad hefur uppa Nadena framm a Kvølld sinna Lÿfdaga / hefur hlauped i stoorann Hæska/ og er hætt vid ad hann mune i Onnad vera / og honum verde Loksins burtvÿsad ad Kvølldenu / til þess hverium hn̄ hefur allann Dagenn þionad. Nu þo ad Vored sie lided /


(k) Gen. 12. v. 4. (l) Job. 3. v. 9.

Sumared a Enda komed/ og Bleomstr-
uren ad øngvu ordeñ/ hafe Tried nock-
urn Kr.pt epter i Rooteñe kañ ſamt Bet-
ureñ Gude ad þocknaſt / ſierdeilis hafe
hañ ſied / ad nockrar af þeim afþollnu
Greinum hafe Avoxt bored / þviad hñ
er Nadugur og Myſkunſamur/ og hañ
mun ecke ſnwa ſijnu Auglite fra ydur /
ef þier ſnwed ydur til hñs (m). Snar-
lega ydrar hañ og Straffſins (n).
Christur var ſ ſoddañ einu Herberge
fæddur/ hvar aller mættu iñganga/þar
med audſynande / ad hañ villde medtaka
alla þa ſem til hañs kiæme / Unga og
Gamla/ Rijka og Fatæka. Sw nija
Jeruſalem hefur og tolf Port ( þad eru
Dyr)/ ſem merkia/ ad allſtadar ad/ og
a øllum Tijmum kuñum vier til Guds
ad koma / ef vier færum med oſſ þad
Offur ſem honū er þægelegt. Blood-
ed JEſu Christi hreinſar oſſ af allre
Synd (o)/ So leiñge ſem þeſſe Upp-
ſprettu

(m) 2. Chron. 30. v. 9. (n) Joel. 2. v.
13. (o) 1. Joh. 1. v. 7. (k)

spretsu Bruñur þornar ecke/ þarf einge eñ ad efast. Latum oss i þetta Siñ skuttlega telia vora Daga. Munu ecke fleire af þeim hafa meir vered Heimen um þægeleger eñ Himnenum? Munum vier ecke hafa meir þioonad Jllskuñe eñ Gilldeñe? Vorar Synder eru ad Vysu fleire eñ Sanduren i Sioonum (p)/ med þeim hofum vier forþient storra og margfalldlega Olucku. Þeñañ Dag hofum vier og ecke helgad Gude nietteslega / epter hañs Villa. Nu er Kvolld komed. Hvad er til Rada? Snw þu aptur / snw þu aptur O Sula mijn / snw þu aptur þu hin fraffallna Jerusalem / so mun og DRottenn snwa sier til þijn. Þar er eñ nu noog Rwm i Himnarijke / ef vier flijtum oss og feþum ecke med vora Yðran. Þar er eñ noog Miskun hia Gude: ef vier leitum heñar med Yferboot og Angre fyrer vorar Synder / mun Gud bera Vmhyggiu fyrer þvi Tilkomanda / og frafwejais



(p) Manassis Bæn / v. 9.

ollu forþientu Straffe og Plagum fra oss snwa. Þvi seirna sem vier hofum komed til Syndaña Vidurkieñingar og Apturhvarfs fra þeim/ Latum oss þvi alvarlegar leita Guds Naadar / og þvi Kappsamlegar frameganga a Veige hiña goodu Verkaña / so munum vier na til þess rietta Takmarks / og epter lided Kvolld vorra Lijfsdaga / sia Dag DRottens med Fagnade a Himnum.

## XIV. Umþeinking
### Af þessu Orde
## J DAG.

Psalm. 95. v. 8.

**J Dag ef þier heyred hañs Rodd/ þa forherded ecke ydar Hiörtu.**

J Dag lifum vier: J Dag kuñum vier og ad deya. Ef vier heyrum i Dag Rodd DRottens Boku-Maña/ sem kalla oss

oss til Yperbootar/ byriar oss strax ad hlyda heñe. Sa er illa staddur/ sem sijna Betran præ: þui i Dag skijtur a Frest til Morguns. Þeñañ Dag heffe eg vissañ. Hvad a Morgun kañ ad skie/ er mieg Ovisst. Eitt Kietts-christ eñ Madur slæst ecke so sem uppa þad Ovissa. Hvar fyrer lætum vier þa þad allra Vissasta vera hiaa oss / sem þad være Ovisst? Þeim Ogudlegu er ecke þetta Ord I DAg/ alltijd þægelegt. Þeim er kiærara Hrafna Mæled/ Cras, þad er A Morgun/ so sem þeir heffde Breff fyrer þui / ad Gud yrde þeim a Morgun Obrygdanlega Nadugr. Hañ stendur ad soñu med sijna Myskunseme hvern Morgun ꝥ Dyrunum (a) : Eñ þegar hañs Myskun er forsogtud i Dag/ kañ hun ædr eñ Morguneñ kiemur/ z a epterfarande Deige ad vera umbreitt i eina grimdar Reide. Þad er ecke eñ nu foked so i Spor þeirrar gomlu Veralldar/ og Gydingaña/ ad vier kuñum ecke ad



(a) Apoc. 3. v. 20.

slra af þeim/ hverneñ til hefur geinged fyrer Guds Rꝛdar Forsögfurum. J DAg er vor Tunga þꝛr til ad tala: Hiartad heilbrygt ad þeinkia: Nendurnar noogu sterkar til þess / ad vier gietū upplipt þeim til Himens. A Morgun kañ allt þetta ad vera veikt orded/ til ad giöra nockurt af þvilíku. Sa sem J Dag verdur sampickur síñū Broodur/ og Fridþꝛger sig vid Gud / hefur sier Goods og Roosamlegs Morgundags ad vꝛnta. Vier hofum ad síñu a medañ vier lifum tvꝛr Adgreiningar Tijmans/ sem eru: J Dag/ og A Morgun. Su eina mꝛ nefnast Vppgangur/ su oñur Nidurgangur. Sú fyrre a ad verka þ/ ad hin sijdare verde good. Sa sem a Morgundeigenū vill ecke mꝛta neirne Olucku/ leite i Dag síñar Lucku/a medañ hana er ad fiña. Þar eru marger Tijmar vors Lijfs umlidner / sem ecke þurfa ad wtmꝛlast med odrum Ordum/ eñ þessum: J DAg/ og i Giꝛr. A þessum Tijmū hefur alltijd aukest vort

Synda

Synda Registur: Eñ so þad verde ecke leingra i vorum Reikninge uppa oss skrif ad/ þa lætum oss J. Dag/ so miked sm oss er mogulegt/ Afmaa þad med vorũ Yðrunar Taarũ. Þegar morgũ Tarum er kastad i Elldeñ/ þa verdur Baaled þvi meira. Þess fleire Synder/ sem Mañe eskiañ drÿger/ þess stærra Elld Drotteñ leggrar Reide uppkveiker hun yfer sialf- re sier. Siaum vier hañ ecke grimlegã baalast a þessũ Tÿmum? Mikell Part- tur af Nordur-Alfu Heimsins/ sm nefn est Europa, stendur vegna Strids og Stÿrialldar i Hættu Baals og Bruna. Eñ so þetta nææ ecke aldeilis til vor/ Lætum oss strax i Dag fra oss kasta Ellds-Mat þessa Baals/ sem eru vorar Synder/ med hverium þad hefur kveikt verd. Sa giefur Tvøfallt/ er fliott giefur. Gud er so Siñadur/ Vid hañ kuñum vier fliott ad forlÿkast. Noogu leinge/ Jaa/ allt til ofleinge/ hofũ vier framgeingeð i þvi sem oss ecke heyrde i vorum Christendoome. Nu er Tÿme

til

til þess ad vier umvendum oss. Lætum
J Dag verda Uppbyrjun a þvi / og
holldum a fram alla adra Daga vors
Lijfs / i þessu Verke. Daglega køllū
vier til Guds: Flijt þier Drotteñ ad
hialpa oss. Pad giører hñ Obrygdan
lega / ef vier flijtum oss ad snwa oss til
hañs riettelega. Þau Saar / sem fliootf
eru bundeñ / grooa þvi fliootara. So ad
vor Synda Saar forrotne ecke / og verde
um sijder Olæknanleg / þa brwkū i Tijma
til þeirra Plaastur undañdrættarlausrar
Yfferbootar. Gud er sañarlega alltijd
reidubweñ / ad wtrietta sijna Armlegge
i moote aumum ydrande Syndurum / og
i siñe Myskun vid þeim ad taka. Allar
vorar Synder / hveriar vier høfum her-
bergiad hiaa oss i Giær / Sieud þier i
burt i Dag / og komed ecke aptur a Mor
gun / nie nockurn Tijma sijdar meir.
Þetta er ydur befalad i Krapte N: An-
da / Vorum Saalum og Lijkømum til
Himmprædis. J Nafne þess Krossfesta
JEsu / skulu þier vorer afsagder O-
viner

viner þessu hlyda/ A mööte hvoriu vier vilium stryda allt til Daudans. Gud hiälpe oss/ og läte ydur i oss og fyrer utan oss dempadar verda/ Amen.

## XV. Umþeinking
Af þessu Orde/
## A MORGUN.
Jacob: 4. v. 14.

# Þier vited eige hvad a Morgun skie mun.

Þier þvi sem a MORGun skal skie/ bijda Men giarnan: En til MOrguns þasta þeir Ogiarnan. Til Olmusu Mañanna/ þeim sem Meñ vilia eckert giefa/ seigia Allmarger/ Ad þeir skule koma aptur a Morgun. Hver Dagur hefur sitt Kvolld/ og ad þvi endudu epterkomande Morgun. Þessarar Myrkunarlausu Veralldar Medaumkunar Morgun kiemr a ongvu Deige. So mar

sa

sa Aume hlaupa i Dag langa Vegus
þar til hañ verdur þreittur/ og Vonar-
laus epter sine Hiælp/og hlÿtur a Mor-
gun Lokſins ad deÿa: Só þrÿaſt ſa
Rÿke þræ Vmþerd þeſſ Farxka/ hvad
hañ vill og ad ſkie ſkule. A MOrgun
ſkal eg giepa þier (a)/ þad er alldrei.
Þegar vier bidium Gud um nockud/Vil-
ium vier hañ veiteoſſ þad/ fyrr i Dag
eñ a Morgun/a medañ vier erũ ad kalla
til hañs: Eñ eins og vier giorum vid
vorn Næunga/er riett ad Gud giore vid
oſſ. Þegar vort hungrad Lÿf er Brauds
þurfande/ Vilium vier oſſ kome þliootlega
Biorg af Himnum: Eñ nær vor
Næunge er Naudſtaddur/ mæ hañ
margañ Dag Forgiefens bÿda ſiñar
Hiælpar hiæ oſſ. So ſem vier villum
ad Gud ſie Siñadur vid oſſ/ ſkylldunſt
vier til ad vera vid Næungañ. Eñ ſo
ſem Hrafnarner hallda vid ſitt Cras, ſo
giorer og ſu vonda Mañeſkia i heñar
Athofnum. Þegar hun ſkal giora Yd-
rañ

(a) Prov. 3. v. 28.

ran og Yperboot/ dregur hun þetta un-
dañ til MOrguns. Þad sem i Dag er
giort/ þarf ecke a Morgun ad gioraſt/
med þvi/ ad þvi er aflokid. Þad Efne/
sem vidvijkur vorre Saluhialp/ maa
ecke hafa nockurn Undañdratt. Þvi
hættuſamara sem oſſ er i þeſſu/ þvi ſijd-
ur meigum vier Ohulter um̃ þad vera til
þeſſ a Morgun. Nær a Morgun/ er
ad mier-leitad/ er eg ecke til/ ſeiger Job:
Cap: 7. v: 21. Vier deyum þo a Mor-
gun/ ſeiger Eſaias Cap: 22. v. 13. og
þa hefum vier ecke Tijma ad giora þad
vier ſkylldum. Vor Skyllda er ad bid-
ia til Guds / bæde i Dag og a Morgun
(b). Ef vier giorum þetta / meigum
vier, vera fyrer utan Sorg fyrer ollu
þvi / sem a Morgun framkiemur. Þad
maa ſeigiaſt/ ad Tijmeñ hafe Vænge /
þvi hañ burt flygur ſo ſkindelega. Ef
vorar Bæner og Betran hefde þa eirn-
eñ/munde Hialp Drottens/epter hverre
vier hofum leinge þreid / fliootlega og

F ſo

(b) Tob. 8. v. 4.

so sem ƀliwgande til vor koma. Einge
eñ skyllde reida sig uppa þad sem eckert
er: so er øll vor Lucka/allt vort Stand/
øll vor Nefd og Æra. Kongur i Dag/
daudur a Morgun (c). J Dag kuñum
vier nockud ad vera/ a Morgun (ad seig
ia) eckert. Eirn Riett-Christeñ Mad
ur hugar meir um þad / hvad høñu mu
ne gieþast i þre sælu Eilijfd / eñ hvad
a Morgun skal fram koma. Nañ heþ
ur ad søñu tvo Daga/ sm eru/ J DAg
og A Morgun/ a hverjum høñu er eins
vijst Lijfed og Daudeñ: ad vera hier/og
vid ad skilia. Nañs Morgun-Dagur
er komeñ / þegar Daudeñ kiemur / og
ƀærer hønum med sier Lijfs og Sælar
Føgnud og Farsælld / og Boot a øllu
þvi hinu Bonda. Vo ad hañ um
Kvølld / Morgna og Middeige / meige
græta (d)/ og hñs Negning sie a hveriu
Morgne (e) / huggar hañ sig vid þad
komande Dags Lioos/ sm øll hañs Sor
gar-

(c) Syr. 10. v. 12. (d) Psalm. 55. v.
18. (e) Psalm. 73. v. 14.

gar Mirkur mune i burt dryfa / z marga Nygdar Daga med eilijfre Glede umbuna. Guds Myskunseme hefur engvan Enda / helldur er hun hvern Morgun ny (f). Gud hefur lated oss aplijfa þennan Morgun / og so legg-ium vier eirn Morgun sem kiemur epter annan / til ad auka vorn Alldur / og hver Morguneñ sem umlijdur styttir Lijfed. Þad er ein riett Dygd Gudhrædslunar / ad vier alla Morgna synum a oss nyia Aukle Christelegs Lijfernis / og burt-rekum Daglega fra oss Synderniar / þvi oss hafa bwed. Ef vier giorum þetta / er eckert vorra Dagsverka til Onytis. Allrijd eigum vier / bæde i Dag og a Morgun ad dempa þann gamla Adam / og nyiast i Anda vors Hugskots / sem ap seige Holldsins Þioonustu / so ad vier med þvi meire Alvoru z Fögnude kyñu Gude ad þioona. A einu Are kañ margt ad þorfoomast / sem a Morgun kiemst ecke i Lag. Sie so ad eingen vilie vir



(f) Thren. 3. v. 23.

da oss þess ad bidia oss um̃ Hialp i Dag/ vitum vier samt med Goodvilia allżta hañ / og honum med Hiarta og Hende viliuglega Hialpa / Svo mun Gud apt- ur a moot myskuna sig yþer oss / bæde i Dag og a Morgun / og Morgundagur eñ mun fyrer sier sialþum Vm̃hyggiu bera (g) / eñ Gud fyrer oss øllum.

(g) Matth. 6. v. 34.

# XVI. Vmþeinking.

## Af

# STVNDVNNE.

Luc. 22. v. 53.

## Þetta er ydar Stund.

Egna eirnrar vonrar Stund- ar/ ber Striidsmaduren hvern Dageñ wt Sverdid a Sydune. Vier vitum ecke nær sw vonda Stund kiemur (a)/ og erum þo (kañ ve ra) mikeñpart Vareygdarlauser. Gud heþur

(a) Eph. 6. v. 13.

hefur lofad sijnum Christnum/ ad hañ villde Nertija þa / og þad so leinge sm̃ þeir lifa/ so ad þeir kyñe ad beriast good re Barattu / og ad Endalokunum med hañs Syne ad ødlast Coronu Dyrdar, ehar. Jlla erum vier þa stadder / ef Stund Freistingañar hitter oss Vopnlausa. Munu þeir þo ecke lijka vel allmarger, þiñast / sem leggia af sier Vopneñ/ þa Fridur er i Landenu? hver þeir kuñe ecke so fljootlega ad taka aptur þegar Strijded er komed. Marger sofa med Petre i Oliugardinum/ so sem sa helvijske Judas være ecke i Nånd / sem oss er þo alltijd nålægur. Hver Stund er añare lijk / fyrer utañ þad ad Gud reiner ecke alla a hverre Stundu. Og hver hefur giort oss vissa um̃ þad ad ein ofur Stund kome epter þessa? Fyrer mørg Hundrud Arum hefur Johañes þetta predikad: Barnakorn/ Su sijdasta Stund er (b). Þvi fleire Stunder sem vier høfum sijdañ lifad / þvi

 færre

(b) 1. Joh. 2. v. 18.

færre höfum vier oss Þra ad vænta til þess sijdarsta Dags. Hvad snart ad vör Dauda Stund mune koma / er ølldungis Ovijst : eñ þad er Obrygdañlegt ad hun er a Veigenum : hvert helldur hun fer so sem Footgangande edur fliugande / vitum vier ecke. Eitt og sierhver take Vara a sialfum sier/ ad hũs Herra fiñe hañ svo a sig komeñ/ sm̃ hñ vill hafa / og hñ sialfur sie svo/ sm̃ hñ villde vera a þeim seinasta Doomsins Deige. Margar Stunder lätũ vier lijda / an þess vier giorũ nockud Gott / og hlioođũ þo til þeirra allra ad svara. Aller Hluter hafa siñ Tijma / og allt Aform under Himnenum hefur sijna Stund (c). eñ Gud skipter um̃ Tijmana og Stundernar (d)/ svo þær goodu Stunder/ sem vier gyrnust/ koma ecke alltijd yfer oss / helldur hinar/ ad hverium vier höfdum ecke gæd. Er ecke margur hver/ a medañ hñ er heilbryngdur/ Huxunar lijtell um̃ þad/ ad so nær sie komed

(c) Præd. 3. v. 1. (d) Dan. 2. v. 21.

komed hſs Dauda Stundu (e): eñ ſvo ad vier drøgum oſſ ecke a Tølar i þvi-lijkum þønkum/ er Ohultaſt/ ad hallda hveria Stundena þa ſijdurſtu/ og draga eckert undañ til þeirrar komande Stund ar/ helldur a nærverande Stundu ad verka þad allt/ ſem oſſ kañ til Gooda ad verda / og þad ædur eñ ſu Stund kañ ad koma (f)/ a hverre hverke Muñur-eñ eda Hiartad kañ ad giøra þad ſem ſkyllde. Sa ſem wígieck um̃ þridiu Stund / giørde þad og um̃ þa ſiøttu og nijundu (g). Aþ vorre Dauda Stun-du veit eingeñ Madur (h)/ ecke helldur nær Stund Freiſtingañа kañ ad Hønd-um ad koma / edur Stunder Hrygdar og Motlætinga. Hímeneñ ſem i Dag er biartur og heidrijkur/ kañ a Morgun ad vera hulen med mirkvum Skijum / og ædur eñ Kvølld er komed / kañ ødruvijſe ad verda / eñ þad var i Morgun. Vier

 vitum

(e) Syr. 11. v. 19. (f) Syr. 38. v. 13. (g) Matth. 20. v. 3. (h) Matth. 24. v. 36.

vitum ei Daga nie Stunder (i). Þar byrer skyllde hver ein Stundeñ vera oss/ ein Uppvakningar Stund (k). Vier lijdum Mædu / allt til þessarar Stundar (l) / og med oss margar Þusund Manneskiur i Verolldeñe: og hver veit nema fsi Þijngsta Mædu Stund muine hier epter ÿber oss komma? Ef vier Otteinst Gud og hölldum hañs Bodord / mun Gud hallda oss vid a Stundu Freistingareñar / og epter mörg Þusund illar Stunder/mun sa eilijfe Fagnadar Dag ur ÿber oss uppreña. Segulsteirneñ er alldrei kyr / þangad til hañ hefur snwed sier til Nordursins. Eirn Christeñ Madur biñur öngva Roo / fyrr eñ hñ kiemur til sijns Endurlausnara JEsum. Vier vilium Hiartañs begner bijda epter honū fra eirne Stundeñe til añarar/og lmta öngva þa Stund lijda/ a hverre vier sendum ecke vorar Gudrækelegar Hiartans Andvarpaner til Him

ens/

(i) Matth. 25. v. 13. (k) Rom. 13. v. 11. (l) 1. Cor. 4. v. 11.

ens / ad han vilie Lokſins frelſa oſſ fra ollum illum Dogum og Stundum. Þeſſe vor Bæn mun alldrei verda til Forgiefens. Veit oſſ þad vor Gud fyrer þin̄ Son JEſum Chriſtum / Am̄.

# XVII. Umþeinking Ap AUGNABLJKENU.

Eſa. 26. v. 20.

**Geim þig um litid Augnablik, þar til ad Reiden̄ er hia geingen̄.**

Einu Augnablike ſijnde Dioful ullen̄ vorum Endurlauſnara JEſu oll Rijke Verallðaren̄ar (a). Þo þeim / ſem villa heita Gopuger og ſtorer i Verolldeñe virdeſt ſijn Magt og Metord / meiga vara um̄ morg Ar / þa er þad þo ecke ad reikna

(a) Luc. 4. v. 5.

reikna nema svo sem um eitt Augnablik. Þusund Ar eru fyrer DRottne sem eitt Augnablik. Og þegar vier erum komner til þeirrar Sælu Eilijfdar/ mun oss ecke umliden Tijme vorra Hormunga virdast ad hafa vered lengre / en eitt Augnablik. Hvad sæll er sa / sem a einu Augnablike skilst vid Verolldena/ en lender i Himnenum? Vier ættum ad hallda maklegä allt vort Lijf/ sem eitt Augnablik. Augunum kunum vier ad renä i Dag/ en a Morgun verda þau (mæske) apturlokenn. J Nätturlegum Svefne likium vier aptur Augun. A hverium Deige kan þad so til ad falla/ ad vier likium þau til fulls i Daudanu/ hvad lijka so sem Svefnen fellur opt a vor Augu Oforvarandis/ So heimsæker oss Dauden þess a mille/ ædur en vier hyggium vid hanns Komu. Marga sæker han i einu Augnablike / og kunna marger þeir ad finast/ er a þessu Augnablike taka ei riettan Vara. Fleister þeir/ sem leggia sig til Svefns / munu

þeinkia /

þeinkia/ ad þeir kuñe ad standa upp aptur: Eñ med þvi þad er ecke vijst / ad þeir sæe a nij uppløked sijnum Lijkamans Augum/ sæe þeir vel fyrer/ ad þeir vegna þess Vvissa/ sem yfer þa kañ ad koma/ medañ þeir eru liþande og vakande/ wtvelie sier eitthvad þad vijst/ sim þeim er til vissrar Huggunar/ epter þad ad Verolldeñ er forgeingeñ. Allt er þ Forgeingelegt / sem vier høfum: Allt er þad Fallvallt/ er vier siaum. Mørgum verda þeirra eigeñ Augu til Hneixlunarlegrar Blindne: Þad sierdeilis/ þegar þeir Iminda sier eitthvad liott/ so sem þad være fagurt/ z eitthvad Forgeingelegt/ sem þad være stadfast. Epter Mañlegum Hætte høþum vier kiært þad vier siaum/ og hvad oss þiker þæge legt fyrer Augunum: Eñ kome þar til Vpplijsing Hiartans/ og vier aktijum þ med þeirre hiñe iñre Andlegu Sioonene/ siaum vier strax Mismun a þvi svarta og hvijta. Þau Iñalucklande Bloomstur hafa hiñ besta Tit / so sem

þau

þau hefdu og hina bestu Ilman. Þær versstu Bækur hafa opt þañ stærsta Titil. I Verolldeñe skijler sier sa Ohreile Kroppur med Silke og Flugele: Og sa verste Metall/ verdur opt med hiñe begurstu Gillingu prijddur: Eñ hverneñ sem þetta geingur i Heimenum/ eigū vier ecke ad alijta þad / epter þvi sem þad sijnast kañ Utvortis/ helldur hverneñ þad i Raun og Sañleika er. Fyrer Mañaña Augū skijna marger Hluter hid Itra fagurlega/ sem þo eru hid Iñra sem þwlar Grafer daudra Mañaa. Og jafnvel þo allt þad sem sijnelegt er/ kiñe ad vera epter Natturuñar Hætte fullkomed / hlijtur þad þo Lokssins ad øngvu ad verda. Vort Lijf er reindar sem eitt Augnablik/ og a einu Augnablike kuñū vier umskipteleger ad verda (b). Ad þesse Umskipte verde oss ecke ad Illu/ so ad vier fyrer þau skilium vid Glede Veralldareñar/ Eñ røtū i Hrygd Fordæmingareñar/ Liggur oss a þvi/ ad vier

(b) 1. Cor. 15. v. 52.

vier a hveriu Augnablike lÿtum til vors eigeñ Lÿfs / og giætum ad hvert voru Sinda Registre mune koma samañ vid Guds Reikningskap/og hvert vier mun-um kuña ad standast med þad fyrer hön um/ edur ecke. Snart kañ þad skÿdar-ska Sandkorn ad vera ruñed wr voru Tÿma Glasé/og vor Lÿkame þliootlega ad nidurleggiast i Jördena / hvar ed hñ skal ad Dupte verda. Vora Daga kuñum vier ecke ad leingia fram yþer Guds Vilia/ og sa hefur vel sied fyrer þeim/ sem skickar sier svo a hveriū Deige/ad hañ þegar Eilÿfdeñ byriast/ver-de settur til Guds Sonar hægre Handar. Vor Glede/ hverrar vier hier nieotum/ varer eitt Augabragd (c)/ Eñ Pÿna Ogudlegra hellst vid Eilÿþlega. Þeir upprÿsa ad söñu skÿdarmeir aller/ sem sig hafa hier lagt til Svefns i Grof-unum: Eñ þeir iñganga þo ecke aller i þa Tialldbwd/ sem et er med Höndum giord/ helldur eilÿf a Himnum/ þvi su-

mer

(c) Job. 20. v. 5.

mer munu þa framganga til Doomsins Vppriſu (d). Eñ ſo ad vier hittum fyrer þau riettu Fridarens Hws/ þegar vier ſkiluñ vid þeſſe vor daudlegu Eimdar Hreiſe/ Vilium vier ſtrax a þeſſu Augnablike/ fyrer riettelega Ydran og Yfferboot/ koma oſſ i Saatt vid Gud/ ſo ad hñ a voru ſijdarſta Augnablike/ nær oſſ kañ eingeñ Mañleg Hialp ad ſtoda/ ſie vor ſeinaſta og Heilſuſamaſta Hugg un. Ef vier ſkylldum þangad til/ hñs vegna/ nockud lijda/ þa hughreiſtum oſſ þar vid/ ad DRottenñ yfergiefur oſſ ecke um eitt Augnablik. Og hañs Reide varer um eitt Augnabragd (e)/ og þegar vier hofum geimt oſſ um eitt lijted Augnablik i Grofunñ (f)/ þar til aller Reide-Stormar eru fram hia oſſ geingner/ mun ſu Himneſka Fagnadar Sool oſſ upprena/ og þad eilijfa Augnablik vottar Glede a Himnum alldrei Enda taka.

(d) Joh. 5. v. 29. (e) Pſalm. 5. v. 6. (f) Eſa. 26. v. 20.

XVIII. Vm

# XVIII. Umþeinking
## Aþ þvi
## UMLJDNA.

Psalm: 144. v. 4.

Madureñ er so sem eckert. Hañs Dagar eru syo sem umlideñ Skugge.

Effi sem Umlided er / haþa Meñ ei leingur ad vænta: Pad Epterkomanda er Ovyst. Peim nyu Spaásognur um uñ epterkomande Týma / er ecke ad trwa. Vyst kañ pad ad skie / ad eg liþe til Morguns / lyka vel ad pad verde ecke. Sa sm er Nyrdoulaus uñ syna Velþerd / veit ecke hvad bægt honum kañ ad veta pad ad næ Vistarveru á Himnum. A Umlidnum Týmum / og allt hyngad til heþur Gud hiælpad oss: Eñ hvert vier skuluñ leingur vidhalldast / Og ad hañ vilie þramveigis leida oss a vorre Jardnesku

nesku Vegferdar Reisu/ mz sama Hætte og hañ hefur hier til giort/ þad er oss Oviss/ og eingeñ hefur sieked Bref fyrer þvi. A Vmlidnum Tijma/ til Rælægrar Stundar/ hofum vier/ an Efa/ stoora Sumu Himen-hroopande Synda kiæted Gud hia oss sia z formerkia: Og til ad bevijsa þetta uppa oss/ þarf ecke ad fletta upp nockrum odrū Bookum/ edur leida þar til nockur vñur Vitne, eñ vora eigeñ Samvitsku. Skyllde vorum Gude lata sier þocknast/ ad vier framhølldum leingur a vorre Lijfs-Reisu til Daudans/ þa hofum vier ad bwast vid þvi/ ad þar mune alltijd aukast vid Skulld vorra Synda/ so ad hun verde æ meire og meire/ allt þangad til ad oss være, Omøgulegt ad vita hana/ eñ sijdur nockra Fullnægiu fyrer hana ad giora. Vorar Synder eru ein Handskrift a moote oss. Hvar med viliū vier afmaa þessa Handskrift: Ecke kañ ein Blij-Hvijta hier til ad duga / Eingeñ Krijt/ og eckert añad/ eñ sa raude Steirn

JEſu Chriſti dyrmætrar Forþienuſtu. Ep vier hoſum haň hier til / verdur af Þuſund/ til hvetra vier kuňum ecke einu ad ſvara/ og hefdum orded i þau eilijfu Myrkur ad wtkaſtaſt/ alls eckert. So fullkomliga betalar JEſu Blood pyrer oſſ/ So hreinſ græder þad oll vor Synda Saar/ ad aþ þeim ſieſt ecke epter hid miňſta Or i eilijþu Lijþe. Vor Betalingur er Ogilldur : Þo erum vier ſkylduger ad Blooda þad ſem vier hoþum til / medaň oſſ er Tijmeň giepeň / ſem ad er eitt harmþrwnged og ſundurkramed Hiarta (a)/ ſo verdur oll Skull deň fyrer vorn Endurlauſnara af Gude uppgiepeň. A þeim uňlidna Tijman um hepur Gud audſyndt oſſ ſijna Myſkunſeme. Til Lands og Vatns hoþum vier uppreiſt vor Sigurmerke. Ad haň mune uňa oſſ þeſſa framveigis / þurfum vier ecke ad epa. Haň ſem hep ur hid gooda Verked vid oſſ uppbyriad mun þad og eirneň pramkvæma / ſier til



(a) Pſalm. 51. v. 19.

Vendañlegrar Dyrdar / so framt sem vier spornunst vid / ad lata oss framar henda þvilijkar Synder / sem vier hoꝼ⸗ um a umlidnum Tijma i moote hañs Vilia drijgt og framed/ þvi þar i er iñe faleñ sw rietta Yferboot og Ydran. Vm þeñañ sallta Sioo sveimar til vor oll Neill og Blessan. A umlidnum Tijma hafa marger so undañ oss geing ed/ ad betur skyllde vered hafa: Morg Fawitska / Veikleike og Illska hefur sig i Tie lated/ lijka vel hefur Gud apt rad sier ad sla oss hardlega med sijnum Reide⸗Vende/ og þar ad auke hefur hñ audsyndt oss so margfallda Oteliande Nad. Ef vier umvendum oss nu vid þetta / og giorum hier epter Verk Gud hrædsluñar/ Mun Gud giefa voru Lan de og Lijdum Lucku og Blessan: eñ añ⸗ ars hana fra oss taka. Hañ nidurlæg er og uppheꝼur: hañ giefur og burttek⸗ ur. Miñstu a hina fyrre Tijdena/ og allt til þessa/ og hygg ad þvi hvad hañ giorde þeim gomlu Fed ::: seiger Moy⸗

ses/Deut. 32. v. 7. Alldrei hefur sa nockur yfergiefenn vered / sem sig hefur reidt uppa DRotten. Enn hvert vil ium vier borga Gude þa Hialp / sem hann hefur a umlidnum Tijma veitt oss ? Vier viliumm med Samuele uppreisa Drott ne eirn Stein / sem heite Ebenezer / þvi ad allt hingad til hefur Drotten hialp= ad oss (b). Hvar eigum vier ad setia hann ? J Minnis-Platz vors Hiarta / so ad Jsrael og Jacob þeinke þar umm / hvijad Gud hefur giort vid oss mikla Hlute / og mun giora þa enn meire hier epter / ef vier gongum fyrer honum i Riettlæte og Heilagleika vora Lijfdaga. Mijner Brædur og Systur. Hingad til hofum vier lifad Umlidna Daga : enn hvert vier faaum ad lifa hier epter lif= ad/ er ecke i neins Manns Heila ad vita. Vier vilium bidia Gud ad giora oss O= hulta hier umm / fyrergief oss O Drott= enn þad sem umlided er / og vier hofum a moote þier giort / fra vorre Voggu ≠



(b) 1. Sam. 7. v. 12.

allt hingad til / mided og lijted. So vilium vier glader / ad endudum þessum Deige/ leggia oss til Svefns / A Morgun mun Gud uppvekia oss og framleida epter sine Velþocknan/ oss til hins Besta / veit oss þad/ vor Gud / hvers vier þig bidium / Amen.

# XIX. Umþeinking.

## Af þvi NAFNEGA.

Edur þessu Orde

## N. B.

Gen. 27. v. 8.

So hlijd N B Son minn minne Roddu / hvad eg skipa þier.



Essu Ordkorne N B kann eingenn ad skipta/ þvi þad er eins Atkvædis Ord. Ef ad vier athugum alla vora Lijfdaga/ þa

þa eru þeir lijka sem eitt Atkvæde ad reikna. Þad sem nu er/ lijdur skiniðelega. Tijmenn burtlijdur blivott: vier eirnenn med honum. Þetta Ord N B/ sem eg sagde / stapast ecke nema i einu Atkvæde/ og syner oss þann nalæga Tijma. Hver veit / hvad margar edur þaar Stunder vier høfum epter Olipad? Þetta Ordkorn N B / er eitt lijted Ord/ þo hefur þad ecke litla Meining/ helldur er þad miøg vigtugt. Minnstu N B þar þyrer a þinn Skapara/ ædur enn þeir vondu Dagarner koma/ og Arenn nálgast/ umm hver þu segder: Þau þocknast mier ecke (a): þvi þu veitst ecke/ hvad fyrer eina Dauda Stund / hvad fyrer eina Freisting/ su Nærsta Stund munde lata þier ad Hondum koma. Þenktu N B umm/ ad þijn Skyllda vtheimter þad þu hallder þier vid Gud: hann ummfram allt ad elska og gyrnast / so ad þu hafer Hlutdeilld med honum sijdarmeir i Himnarijke. Jeg seige aptur: Minn-



(a) Predik. 12. v. 3.

ſku a þiñ Skapara/ Fødur/ Son z Heilagañ Anda. A Fødureñ / ſo ad þu þecker hañ / og hafer Sameining med honum : A Soneñ / ſo ad þu trwer a hañ : A heilagañ Anda / ad þu heirer hañs Rauſt og hlijder honum : Eñ ef þu heirer ecke i Dag Rødd Drottens (b)/ kañ audvelldlega ad ſkie / ad þier veite þyngra ad heira hana a Morgun/ og kuñer ecke þar epter til Himneſkrar Noðſdar i hañs eilijfre Dyrd ad iñganga. Lærdu þar fyrer i Tijma / z Nu ſtrax/ ad betra þig/ og lꜳt þig ecke forherda af Svikræde Syndareñar (c). Siaa/ N B er ſa þægelege Tijme/ ſiaa/ N B er Dagur Sialſpræðeſins (d). Tijde hañ um Hond einu ſiñe / kañ þad ad ſkie / ad hañ kome ecke aptur ødru ſiñe. Eirn goodañ Vind lætur eingeñ forſokkur Skipherra ſo burtlijda/ ad hñ nette ecke ſlñar Siglingar. Eirn forſiꜳll Chriſteñ Madur / ſlepper eñ ſijdur þvi Take.

(b) Hebr. 3. v. 7. (c) Hebr. 3. v. 13. (d) 2. Cor. 6. v. 2.

Tækeþære / sem han heþur NB Ad kieppast a Neþn eilyþrar Sæluhialpar. Kaupmadurenn lytur epter þvi fyrsta Tækefære ad selia syna Voru / og þa hana aptur betalada : Akurmadurenn tekur Vara a þvi/ ad Sa og Vppskiera. A riettum Tyma hlioota vier ad Sa / eþ vier i Eilyfdenne vilium haþa Not aþ þeirre Himnesku Kornskieru. Jeg mæ meina ad þesse Tyme sem NB er/ sie minn hinn sydarste: þar þyrer vil eg hallda þvi eg heþe/ og ydka þad Gooda a medann eg kann þad ad giora. Perla Himensins verdur ecke til Kaups / nema a riettum Tyma. Sa sem ecke kaup er Voruna þegar hun er til Solu/hindrar sinn Avinning. Sie Tymanum tapad/ er allt tapad. Ef þeir Fordæmdu feinge hann aptur i Nelvyste / hvad mundu þeir þa ecke þegner giora? Enn seint kiemur Osvinnum Raad i Hug: þar Kla ga þeir þorgieþens / þar andvarpa þeir til einkis. Dioþullenn kienner synum Skoolabornum þetta Ord/ A Morgun /

